# SAMBAND

VIÐ

# FRAMLIÐNA MENN

EFTIR

EINAR HJÖRLEIFSSON



REYKJAVÍK
ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA
1905

# SAMBAND

VIÐ

# FRAMLIÐNA MENN

EFTIR

EINAR HJÖRLEIFSSON



REYKJAVÍK

ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA

1905



MIG langar til að tala um það samband við framliðna menn, sem nefnt er spíritismi.

Og allra fyrst ætla eg að tala um það, *hvers vegna* eg er að tala um hann. Og þá skal eg byrja á því að láta þess getið, að eg geri það nauðugur. Ekki fyrir þá mótspyrnu, sem eg veit það vekur, sem eg segi, né þau háðungarorð, sem fyrir það verða um mig sögð. Eg hefi engan beyg af þess konar. Ekki heldur fyrir tilfinnanlegan skort á *bóklegri* þekking á málinu. Eg hefi töluvert um það lesið, svo frá því sjónarmiði fæ eg ekki betur séð, en að eg hafi nokkurn rétt til að leggja orð í belg. Eg geri það nauðugur fyrir þá sök, að eg hefi svo litla *reynslu*-þekking á spíritismanum. Eg segi alls ekki, að það, sem fyrir mig hefir borið, sé einskisvert. Allir, sem hafa verið sjónarvottar að þeim fyrirbrigðum, telja þau mjög merkileg. Þau sýna að minsta kosti öfl með sumum okkar, sem aldrei hafa gert vart við sig, svo nokkuru okkar sé kunnugt, nema við tilraunir okkar. Þau fyrirbrigði benda meira að segja ríkt á annað líf. En þau færa, að minni skoðun, ekki óyggjandi sannanir fyrir öðru lífi. Þau *kann* að mega skýra á annan veg, samkvæmt þeim sálarrannsóknum, sem fram hafa farið á síðustu áratugum, þó að þær skýringar mundu verða alt annað en sennilegar eða aðgengilegar í margra augum. Eg vildi langhelzt bíða, þangað til

eg yrði sjónarvottur að þeim reynslusönnunum, er eg teldi sjálfur óyggjandi.

Hvers vegna bíð eg þá ekki eftir því?

Það er vegna þess rangsnúna umtals, sem orðið hefir um málið hér í bænum síðustu vikurnar — í samræðum manna á milli, í fyrirlestrum og í blöðum. Sumpart hefir verið haldið að mönnum skoðunum, sem bygðar eru á megnri vanþekking á málinu. Sumpart hefir verið lagt kapp á að æsa upp tilfinningar manna og hleypidóma gegn þessari hreyfingu, sem nú er vafalaust ein af hinum allra ríkustu andlegum hreyfingum mentaheimsins. Eg vil gera það lítið, sem í mínu valdi stendur, til þess að vara menn við að steypa sér út í hleypidómaflóðið. Og þeim, sem komnir eru út í það, langar mig til að hjálpa til að stinga höfðinu upp úr því, áður en þeir eru druknaðir þar andlega. Meðfram vegna þess, að mér finst það svo ógeðslegt að drekkja sál sinni í hleypidómum. En jafnframt vegna hins, að eg tel afarmerkilegan sannleika fólginn í spíritismanum og blátt áfram sviksemi við sannleikann að láta troða hann undir fótum, án þess að hafast neitt að. Og af því að eg trúi því, að allur mikilsverður sannleikur standi í einhverju nánu sambandi við guð, tel eg það líka sviksemi við guð að horfa á það aðgjörðalaus, að sannleikanum sé misþyrmt.

Næst skal eg gera grein fyrir því, hvers vegna eg nota útlenda orðið *spíritismi* en ekki íslenzka orðið *andatrú* um það, sem eg ætla að tala um. Eg geri það vegna þess, að eg fæ ekki betur séð en að allir þeir, sem trúa á persónulegan guð og annað líf, séu andatrúarmenn. Sérstaklega er sá mikli hluti mannkynsins, sem byggir lífsskoðun sína á frásögnum

heilagrar ritningar, ómótmælanlega andatrúarmenn. Það er alkunnugt, að frá fyrstu blaðsíðum þeirrar bókar og aftur á þá allra-síðustu er alt af öðruhvoru verið að segja frá vitrunum úr heimi andanna og að hin mikilsverðustu og dýpstu sannindi þeirrar bókar eru frá þeim heimi runnin, eftir því, sem kristnir menn trúa og fullyrða. Jafnvel *aðventistar* eru gallharðir andatrúarmenn. Þeir trúa ritningunni allri, enn bókstaflegar en nokkurir aðrir. Og þó að þeir trúi því ekki, að andar framliðinna geti nokkuru sinni með nokkuru móti gert vart við sig, af því að mannverurnar séu í dái eftir andlátið, alt þangað til er þær verða vaktar upp á dómsdegi annaðhvort til sælu og eilífs lífs eða til kvala og tortímingar, þá trúa þeir því samt óhikað, að til sé aragrúi af *djöflum*. Og djöflarnir eru líka andar.

Orðin andatrú og andatrúarmenn vil eg ekki nota um það efni, sem eg ætla að tala um, af því að eg vil ekki taka þau frá neinum, sem eiga þau með réttu. Nú má segja, að orðin *spíritismi* og *spíritistar* sé komið af latneska orðinu *spiritus*, sem þýðir andi, svo að þá séu í raun og veru þeir allir spíritistar, sem eru andatrúarmenn. Það má líka til sanns vegar færa. En að hinu leytinu hafa þessi orð fengið hefð um allan heim sem sérheiti einnar sérstakrar sannfæringar og sérstaks flokks manna. Þess vegna held eg þeim og vona, að þau særi ekkert íslenzkt eyra.

Eftir þennan inngang komum við þá að því, hvað spíritisminn er. Sumt af þeim umræðum um málið, sem hér hafa þegar farið fram, sýnir, að ekki er vanþörf á að gera grein fyrir hugmyndinni sjálfri.

Undirstaðan undir spíritismanum er þekking á því, að atburðir sérstakrar tegundar hafi gerst á dög-

um nútíðarmanna. Þessa atburði nefni eg til bráðabirgða *dularfull fyrirbrigði*. Þau eru með ýmsu móti. Menn sjá svipi eða heyra raddir, sem þeir geta ekki gert sér grein fyrir að séu úr jarðneskum heimi. Menn fá skynsamleg svör frá líflausum hlutum. Menn skrifa ósjálfrátt eða tala ósjálfrátt, stundum í meðvitundarleysi, stundum í venjulegu ástandi, það, sem þeir geta ekki vitað og enginn viðstaddur veit, en reynist rétt, þegar farið er að rannsaka það. Hlutir eru færðir til af ósýnilegum öflum, jafnvel gegnum föst efni, t. d. húsaveggi. Ljósmyndir eru teknar af verum, sem enginn sér með berum augum. Og inni í stofum manna, og það heimsfrægra vísindamanna, koma fram og hverfa verur, sem tala við menn, láta vikta sig og mæla, láta telja hjartaslög sín og svo framvegis, verur, sem enginn hefir enn gert neina skynsamlega grein fyrir aðra en þá, að þær séu úr andanna heimi og taki um stund á sig jarðneskan líkama.

Fyrirbrigðin eru með mörgu öðru móti. En þetta, sem eg hefi nefnt, nægir til þess að gefa mönnum nokkura hugmynd um, hvers eðlis fyrirbrigðin eru. Og eins um hitt, að hér er um stórtíðindi að tefla, svo framarlega sem þetta er satt.

Nú er ykkur auðvitað sagt, að þetta sé ekki annað en hégiljur og vitleysa, æstar ímyndanir hjátrúarfullra manna. En þar ættu menn að fara varlega. Menn ættu að vera athugagjarnir og orðvarir, eins og Hallgrímur Pétursson ráðleggur. Það er leiðinlegt að vera staðinn að rostalegu fáfræðishjali. Og þeir, sem neita fyrirbrigðunum, verða áreiðanlega að því staðnir. Það er leiðinlegt að verða að éta þann graut, sem menn eru búnir að hrækja í.

Og þið getið reitt ykkur á, að þeir, sem nú eru að neita þessum fyrirbrigðum, verða að renna ýmsu niður, sem þeim þykir óþægilegt, nema þeir verði því skammlífari. Og sleppi þeir við það hér í lífi, þá er ekki ólíklegt, að þeir verði að gera það í öðru lífi. Og hver vissa er fyrir því, að það verði *þá* bragðbetra.

Eg segi þetta ekki út í bláinn. Eg byggi það ekki heldur á eigin reynslu, né á reynslu þeirra manna, sem hafa verið að kynna sér þetta mál í samvinnu við mig. Eg veit, að af ýmsum mundi lítið verða úr því gert, þó ekki væri fyrir aðra sök, þá vegna þess, að við erum Íslendingar. Hjá sumum af þjóð vorri er þrælslundin orðin svo mögnuð, að þeir geta ekki ætlað löndum sínum þá vitsmuni, að þeir séu færir um að gera sams konar athuganir eins og aðrir menn eru nú að gera um allan mentaðan heim. Eg þarf ekki annað en benda á Þjóðólf í því sambandi. Eg ætla að lofa ykkur að heyra vitnisburð annarra manna, sem þið leggið vafalaust meira upp úr.

Eg byrja þá á enska vísindamanninum *Alfred Russel Wallace.* Hann er félagi í konunglega vísindafélaginu brezka (Royal Society). Hann er einn af fremstu þjóðafræðingum heimsins. Hann kom með breytiþróunarkenninguna samtímis Darwin. Hann er yfirleitt eitt af þeim stórmennum í andans heimi, sem mentaðir menn bera lotningu fyrir. Í ritgjörð, sem heitir »A Defense of Modern Spiritualism, its Facts and Teachings«, kemst hann meðal annars svo að orði:

»Eg held því fram, að fyrirbrigði spíritismans þurfi í heild sinni *engrar* frekari staðfestingar. Þau

eru nákvæmlega jafn-vel sönnuð eins og hverjar sem helzt staðreyndir í öðrum vísindagreinum. Ekkert einasta þeirra verður afsannað með neitun eða fyndni; það verður ekki gert nema með *nýjum* staðreyndum og nákvæmum *ályktunum* af þeim staðreyndum . . . Vottorðunum og sönnununum er svo farið, að vér höfum fullkominn rétt til þess að telja fyrirbrigði spíritismans *fullkomlega sönnuð*«.

Nú kunna menn að segja: Ekkert er að marka Wallace, þó að hann sé heimsfrægur vísindamaður, af því að hann er spíritisti. Eg skal þess vegna benda mönnum á ummæli tveggja annarra manna, sem eru mótstöðumenn spíritismans, manna, sem einmitt á þessu ári eru af alefli að berjast gegn þessari hreyfingu. Í augum sumra eykur það sjálfsagt gildi ummælanna, að þeir eru ekki að eins *prestar*, heldur líka *danskir*.

Annar þeirra er *Skovgaard-Petersen*. Margir kannast við hann, bæði af ritgjörðum þeim, sem teknar hafa verið eftir hann í »Verði ljós!«, og af bók eftir hann, sem nýlega hefir verið lögð út á íslenzku: »Þýðing trúarinnar fyrir þann, sem vill komast áfram í heiminum«. Í bók, sem nýlega er hingað komin, er rituð *gegn* spíritismanum og heitir: »Kan der leves paa religiös Overtro?« viðurkennir hann, að fyrirbrigði spíritismans gerist í raun og veru; yfirleitt sé ekki nú unt að efast um það; séu *þau* ekki óhagganleg, þá verði vitnisburður mannkynsins yfirleitt ekki tekinn gildur. (»De spirtistiske Fænomeners Realitet staar fast, ja staar og falder med Tilforladeligheden af menneskeligt Vidnesbyrd overhovedet«. Bls. 30).

Hinn er *P. Johannes Jensen*, prófastur í Höjslev. Hann hefir í vetur staðið í ritdeilu allhvassri um spíritismann við einn af helztu mönnum danskra

spíritista. Í blaðinu »Kirken og Hjemmet« hefir hann skrifað grein um bók Skovgaard-Petersens, þá, sem eg tók orðin úr áðan. Um þessa staðhæfing höf. um áreiðanleik fyrirbrigðanna — »borðdans, andasvör, andaskrift, holdtekju anda o. s. frv.« — segir hann, að þó að mörgum, sem ekki hafa rannsakað spíritismann sjálfir, muni þykja hún furðuleg og alt að því ótrúleg, þá sé hún vafalaust rétt. Nú muni ekki nokkur þeirra mörgu vísindamanna (lífseðlisfræðinga, eðlisfræðinga, sálarfræðinga), sem rannsakað hafi málið, neita því, að fyrirbrigði spíritismans gerist í raun og veru.

En þó að margir taki sjálfsagt mikið mark á þessum dönsku prestum, get eg samt hugsað mér, að andlegur myndugleiki þeirra sé ekki *öllum* nógur. Þess vegna ætla eg að enda þennan tilvitnanakafla með orðum eftir ameríska prófessorinn *T. J. Hudson*, sem um mörg ár hefir fengist við að rannsaka fyrirbrigði spíritismans, en álítur að *ekki* sé enn sannað, að þau eigi rót sína að rekja til annars lífs en hins jarðneska. Um þessi fyrirbrigði kveður hann svo að orði:

»Það er ekki hægt að kalla þann mann efagjarnan, sem á vorum dögum neitar fyrirbrigðum spíritismans; hann er blátt áfram þekkingarlaus, og það væri vonlaus fyrirhöfn að ætla sér að fara að kenna honum«.

Eg gæti haldið áfram með sams konar tilvitnanir marga daga. En eg verð einhverstaðar að láta staðar numið. Og eg ætla að gera það hér. Mér finst þessar tilvitnanir eigi að vera næg bending um það, að ráðlegra sé fyrir fáfræðinga Reykjavíkur, hvort sem þeir eru skólagengnir eða óskólagengnir, að fara dá-

lítið varlega, að láta ekki of stórmannlega, að draga, heldur en hitt, úr svívirðingarorðunum við þá menn, sem eru þeim fróðari og hafa ríkari löngun en þeir til þess að komast til viðurkenningar sannleikans.

Þessi fyrirbrigði eru grundvöllur spíritismans, eins og eg sagði áðan. En viðurkenning þeirra, sú þekking að þau gerist í raun og veru, er enginn spíritismi. Hún er á sinn hátt alveg sama eðlis eins og þekking um það, að Ameríka sé til, að Rómaborg sé til, að gufuvélar og rafmagnslýsing og loftskeyti sé til, að flóð og fjara sé til, eins og Isafold komst að orði. Spíritisminn kemur ekki til greina, fyr en farið er að draga *ályktanir* af fyrirbrigðunum, mynda sér sannfæring um, hvaðan þau stafi, hvernig á þeim standi.

Til þess að vera spíritisti verða menn fyrst og fremst að vera sannfærðir um, að fyrirbrigðin stafi frá *öndum*. En samt er það ekki nóg. Skovgaard-Petersen er ekki spíritisti, heldur spíritisma-fjandi. Hann heldur að fyrirbrigðin stafi frá öndum, það er að segja djöflum — því djöflarnir eru líka andar.

Spíritistar draga þá ályktun af fyrirbrigðunum, að þau, að minsta kosti oft, eigi að eins stafi frá öndum, eigi að eins frá framliðnum mönnum, heldur einmitt frá *þeim* framliðnum mönnum, sem fyrirbrigðin sjálf benda á, að um sé að tefla. Þeir trúa því með öðrum orðum, að unt sé fyrir framliðna menn, undir einhverjum þeim skilyrðum, sem menn vita ekki hver eru, að gera mönnum í þessu lífi viðvart um tilveru sína. Og þeir trúa því jafnframt, að unt sé fyrir menn í þessu lífi, undir sérstökum skilyrðum, sem menn þekkja ekki nema að mjög litlu leyti, að komast í samband við þá framliðna menn, sem sjálfir hafa hug á því sambandi.

Og þegar hingað er komið, get eg ekki stilt mig um að benda á eina endemis-fáfræðivitleysu, sem nýlega stóð í Þjóðólfi. Þar er verið að fárast um, hve óvirðulegar hugmyndir það gefi um annað líf, að andar framliðinna manna verði »kallaðir fram« og spurðir spjörunum úr, séu undirorpnir *valdboði* Pétur og Páls og þar fram eftir götunum.

Í allri veröldinni er ekki til nokkur spíritisti, sem gerir sér í hugarlund, að andar framliðinna manna séu háðir »valdboði« nokkurs manns hér á jörðinni. Í allra veröldinni er ekki til nokkur spíritisti, sem eitt augnablik ímyndar sér, að nokkur andi framliðins manns komist *nauðugur* í samband við menn hér á jörðunni. En hitt gera þeir sér í hugalund, blátt áfram af því, að þeir þykjast hafa óræka reynslu fyrir því, að mikill fjöldi af öndum framliðinna manna hafi ríka *þrá* eftir því að gera vart við sig hér á jörðunni. Og þeim þykir ekkert óvirðulegt við *það* út af fyrir sig. Þeir sjá ekki, að það sé nein óvirðing fyrir Jesúm frá Nazaret, að hann birtist hér á jörðinni, eftir að búið var að krossfesta hann og leggja hann í gegn og grafa hann. Og þó að ólíku sé saman að jafna, þá sjá þeir ekki heldur, að það sé nein óvirðing fyrir framliðinn mann, að hann langi til að gera vini sínum viðvart um, að hann haldi áfram að lifa og hvernig honum líði. Þeir sjá ekki, að það sé nein óvirðing fyrir anda framliðins manns, að hann þrái að varpa sannleiksgeislum inn í vanþekkingar-myrkur jarðneskrar veraldar. Þeir sjá ekki, að það sé nein óvirðing fyrir framliðna móður, að hún þrái að færa barninu sínu heim sanninn um það, að dýrmætustu og fagnaðarríkustu sannindin, sem hún hefir innrætt því, séu áreiðanleg.

Spíritisminn er fólginn í meiru en sannfæringunni um það, að unt sé að komast í samband við framliðna menn. Sú sannfæring er í eðli sínn *þekkingaratriði* að eins. Spíritisminn er líka *trúarbrögð*, að minsta kosti fyrir mörgum.

Eg get ekki með nokkuru móti gert að þessi sinni nákvæma grein fyrir þeim trúarbrögðum. Þau eru auðvitað bygð á kenningum þeirra anda, sem spíritistar taka trúanlega. Grundvallaratriðin skilst mér séu þessi:

Til er einn almáttugur, algóður, alvitur, heilagur og réttlátur guð. Hann sendi á sínum tíma í heiminn anda, sem nefndur var Jesús frá Nazaret, óendanlega fullkomnari anda en vér fáum gert oss í hugarlund, til þess að snúa huga mannanna til sín, sýna þeim leiðina til þess að þeir gætu orðið »eitt með föðurnum« og lýsa þeim með eftirdæmi sínu á veg fullkomnunarinnar. Tilvera mannsins heldur áfram eftir dauðann, og þar uppsker maðurinn nákvæmlega eins og hann sáði hér, miklu nákvæmlegar en vér getum gert oss hugmynd um í þessu lífi. Þar hefir það ekkert gildi, hve mikið eða lítið vér komum með af trúargreinum í huganum, heldur eingöngu hitt, hve vel oss hefir tekist að laga huga vorn eftir guðs vilja: hve miklu óbeit vér höfum á því, sem ljótt er og syndsamlegt, hve ríka og einlæga þrá vér höfum eftir og lotningu vér höfum fyrir sannleikanum og hve ást vor er innileg á því, sem gott er, hve mikið vér erum fúsir á að leggja í sölurnar fyrir það og fyrir meðbræður vora. Bænin er óumræðilega mikilvæg, ekki að eins fyrir þá sem biðja, heldur og fyrir þá, er fyrir er beðið, hvort sem þeir eru lífs eða liðnir. Guð ætlast til, að maðurinn taki stöð-

ugum framförum í vitsmunum, þekkingu, heilagleik og kærleika. Hann verður að þoka sér sjálfur áfram á þessari leið fullkomnunarinnar. En hvenær sem hann fer að vilja hið góða, hvort sem það er í þessu eða öðru lífi, þá fær hann mikilsverðan stuðning frá góðum öndum, sem vaka yfir honum og leiðbeina honum. Lausnargjald fær hann ekkert frá afleiðingum ávirðinga sinna, en honum er hjálpað til að bæta úr þeim, þegar hann iðrast þeirra af einlægum hug.

Skovgaard-Petersen fullyrðir, að þessar kenningar séu frá djöflinum, af því að þær eru ekki algerlega lúterskar. Davíð Östlund fullyrðir, að þær séu frá djöflinum, af því að ef það sannaðist, að þær væru frá framliðnum mönnum, þá væri í sama bili ein af sérkreddum aðventista orðin að engu. Þjóðólfur fer svo langt, það lengra en allir aðrir, sem eg hefi séð birta speki sína um þetta mál, að hann fullyrðir, að enginn geti tekið mark á fyrirbrigðum spíritismans, nema þeir, »sem varpað hafa fyrir borð kristilegri trú«. Út úr kristninni skal þeim tafarlaust vísað fyrirfram, ef þeir halda því fram, sem ýmsir af merkustu vísindamönnum heimsins telja gersamlega fullsannað, alveg eins og aðrar staðreyndir þekkingarinnar! Ekki vantar umburðarlyndið, eða kærleiksþelið, eða gætnina.

Eg veit ekki, hvort ykkur finst þetta ægilegt. Mér fyrir mitt leyti finst það ekki. Mér koma í hug orð Prédikarans: »Sumt er til, sem menn segja um: sjá! það er nýtt! en það hefir þó verið til í gamla daga, áður en vér vorum til«. Svona hefir vitleysan og hrokinn æfinlega verið. Mér dettur í hug sandur af dæmum. En eg ætla að láta mér nægja að minna á eitt þeirra.

Fyrir tæpum 1900 árum var maður austur í Asíu, sem hagaði sér alt öðruvísi en til var ætlast. Hann var að brjóta upp á ýmsum kenningum, sem riðu alveg bág við »réttan« átrúnað, svo mjög, að menn sögðu hann guðlasta. Og hann var að fást við ýmis konar »dularfull fyrirbrigði«. Hann var ekki að *rannsaka* þau; þess þurfti hann ekki. Hann *framleiddi* þau, til þess að aðrir skyldu geta dregið ályktanir út af þeim. Svo bíræfinn var hann, að hann talaði við Móse og Elías uppi á fjalli í skínandi birtu, að þremur lærisveinum sínum áhorfandi. Spekingar og guðfræðingar þeirrar aldar fullyrtu, að hann stæði í sambandi við djöfulinn. Hann hefir nú um sæmilega langan tíma verið talinn frelsari heimsins. Og þessa dagana hefir allur kristinn heimur verið að halda fagnaðarstórhátíð út af því, að hann birtist eftir andlátið.

Og út af þessu djöflaskrafi um spíritismann, sem eg hefi minst á og brigzlunum um það, að þeir hafi varpað kristindóminum fyrir borð, sem vilja fá að mega rannsaka fyrirbrigði spíritismans óáreittir og svívirðingalaust — um annan »spíritisma« er enn ekki að tefla hér og þar af leiðandi í raun og veru um alls engan spíritisma — út af þessu hvorutveggja skal eg benda ykkur á það, að sumir hákristnir og stórmentaðir menn líta á spíritismann sem óumræðilega blessun fyrir kristnina. Eg nefni til dæmis ræðu, sem haldin var í Lundúnum í maímán. 1900. Maðurinn, sem hélt hana, heitir Haweis og er prestur í ensku biskupakirkjunni. Ræðan ber það fyllilega með sér, að maðurinn er fyrirtaks-vel mentaður, skarpgáfaður og mælskur. Hann lauk máli sínu á þessa leið:

»Prestarnir hafa með spíritismanum fengið uppreisn fyrir ritninguna sína. Vér höfum fengið nýjan heimspekilegan grundvöll fyrir ódauðleika eftir þá atóma-umbylting, sem vér köllum dauða. Vér sjáum, að spíritisminn er ekki andstæður friðþægingunni, né kenningunni um hina framliðnu, né samfélagi heilagra. ‚Eru þeir ekki allir þjónustusamir andar, útsendir til að þjóna þeim, sem öðlast skulu sáluhjálpina?‘ Eg segi, að spíritisminn hafi loks tekið frá oss hugmyndina um þann dutlungafulla, gjörráða, óskynsamlega guð, sem menn héldu, að dæmdi skepnur sínar á þann hátt, er væri til skammar fyrir hvern algengan valdsmann — vitsmunalaust, miskunnarlaust, meðaumkunarlaust, skilningslaust — hugmyndina um þann guð, er svo mörgum skynsömum, trúhneigðum mönnum ofbauð að hugsa til. Spíritisminn hefir sagt sig frá þessari guðshugmynd. Hann hefir vísað oss til guðs, er dæmir réttlátlega, — guðs, sem ekki er breytingum háður, er hinn sama í gær og í dag og að eilífu, sem elskar manninn, hvort sem vel gengur eða illa, og flytur hann smátt og smátt til guðdómlegra lífs, — til guðs, sem aldrei breytir stjórnarstefnu sinni, af því að hann breytist aldrei sjálfur. Spíritisminn hefir frætt oss um heiminn fyrir handan djúpið, sem gerir tilveruna léttbærari. Hann vísar oss á líf, en ekki á dauða. — Já, hann fer með oss að miðdepli lífsins og uppsprettu þess, hann leiðir í ljós fyrir oss ljómandi hersveitir þjónustusamra anda, sýnir oss Jakobsstigann, sem nær frá jörðunni upp til himna, stigann, sem englar fara eftir upp og ofan. Spíritisminn hefir gefið oss ritninguna aftur, hefir gefið oss Krist aftur, hefir gefið oss ódauðleikatrúna aftur, og hann hefir gefið oss drottinn aftur«.

Svona segist nú *þessum* presti frá. Er ekki bezt að tala gætilega?

Annars koma trúarbrögð spíritista okkur ekkert við. Eg finn enga köllun hjá mér til þess að fara að halda þeim neitt fram eða verja þau. *Þau* eru ekki á dagskrá hér. Eg vildi að eins benda mönnum á að vera athugagjarnir og orðvarir um þau eins og annað, er þessu máli kemur við, líta í kringum sig, áður en þeir hlaupa eftir hinum og öðrum staðhæfingum og meira eða minna fráleitum fyrirdæmingarstóryrðum.

En *fyrirbrigðin* eru á dagskrá. Við þau eru menn að fást hér og fyrir það eru þeir svívirtir frammi fyrir þessum bæ og öllum landsmönnum. Fyrir því hverf eg aftur til þeirra.

En því miður verður það aðallega til þess að beiðast afsökunar. Mér væri einkar ljúft að skýra ykkur sem nákvæmast frá sem flestum tegundum, að svo miklu leyti, sem þau eru mér kunn. En eg get ekki mikið sagt þá stuttu klukkustund, sem eg stend hér.

Eg ætla að nota þær mínútur, sem eg á eftir, til þess að minnast fáeinum orðum á algengustu fyrirbrigðin, sem til eru. En eg get ekki komið með meira en örlitlar bendingar. Þau gerast um allan heim, og þau hafa gerst, síðan er allra fyrst fara sögur af mannkyninu. Þegar við vorum lítil, titraði í okkur hver taug við að heyra frá þeim sagt. Og jafnvel þegar við erum orðnir rosknir oddborgarar og æsingin er farin úr ímyndunaraflinu, fer um herðarnar á okkur og niður eftir bakinu einhver dularfullur, ýskrandi sæluhrollur við að heyra frá þeim sagt í kvöldmyrkrunum.

Eg á við *svipina.* Íslenzkir spekingar segja vafalaust, að þeir séu ekkert annað en hjátrú og hégómi og hugarburður. Nú orðið hlær mentaður heimur að þeirri fákænsku. Svipasögur hafa verið rannsakaðar vandlega, bæði af vísindamönnum í Sálarrannsóknafélaginu brezka og annarstaðar.

Fyrst og fremst er það gersamlega óyggjandi, að áreiðanlegir, alheilbrigðir menn þykjast hafa séð svipi. Vitnisburður þeirra um það efni er jafn-áreiðanlegur eins og vitnisburður mannanna yfirleitt getur verið.

En *hvað eru* þessar sýnir? Þar verður þrautin þyngri, þegar á að fara að leysa úr því. Vafalaust kemur það fyrir, að þær eiga sér engan stað utan meðvitundar þess manns, sem þykist sjá þær.

En það er með öllu fráleitt að skýra allar svipasýnir á þann hátt. Tökum til dæmis svipi manna, sem sjást á sama sólarhringnum, sem þeir deyja, 12 stundum fyrir eða eftir andlátið — því að svipir manna sjást ekki allsjaldan á undan andlátinu. Eftir rannsóknum og útreikningum félagsins, sem eg nefndi áðan, verða líkindin fyrir því, að sýnin sé tilviljun ein og eingöngu komin upp í meðvitund mannsins, er sér, eins og einn á móti nokkurum miljónum. Það er með öðrum orðum nokkurum miljónum sinnum líklegra, að sýnin stafi frá hinum deyjandi manni, en að hún sé skynvilla að eins. Það er margfalt sterkari sönnun en menn að jafnaði verða að byggja á dóma sína í daglegu lífi.

Benda þá svipirnir á framhald lífsins eftir dauðann? Sumir gera það og sumir gera það ekki.

Til þess að gera grein fyrir þessu, verð eg að láta mér nægja í þetta sinn að lesa ykkur þýðingu

á tveimur sögum úr hinni ágætu bók F. W. H. Myers, forseta Sálarrannsókna-félagsins brezka, sem heitir »Persónuleikur mannsins«, bókinni, sem Stead komst svo að orði um, að hún væri ekki að eins merkasta bók mánaðarins eða ársins, heldur og merkasta bók vorra tíma.

Fyrri sagan er rituð 15. des. 1891 handa félaginu. Sögumaðurinn er kona, sem nefnd er frú M. Félagsmenn þektu hana, en hún bað um, að nafn sitt yrði ekki birt á prenti, sem skiljanlegt er, vegna þess að raunaleg atvik í ættarsögu mannsins hennar koma fyrir í sögunni. Frú M. segist svo frá:

Áður en eg fer að segja frá atvikunum að því, er eg sá svip, langar mig til þess að lesendum skiljist það til fulls, að eg hafði ekki minstu hugmynd um, að reimt væri í húsinu, sem við maðurinn minn áttum heima í, né að neitt raunalegt hefði komið fyrir fjölskyldu þá, er þar hafði búið um mörg ár á undan okkur. Húsið stóð á yndislegum stað. Að nokkuru leyti var það nýtt og að nokkuru leyti gamalt, og gamla hlutann höfðum við fyrir svefnstofur. Upp til þeirra voru tveir stigar, og gangur var þar uppi og gluggi á honum og morgunsetustofa við hliðina á glugganum. Þegar eg kom inn í svefnherbergi mitt eitt kvöld um kl. 11, fanst mér eg heyra einkennilega kveinstafi og einhvern gráta með ekka eins og af mjög sárri sorg. Eg hlustaði af mikilli athygli og þetta hélt áfram; svo eg hleypti frá gasinu í svefnherberginu, gekk svo að ganggluganum, sem eg hefi minst á, og dró frá blæjuna; og þar var á grasinu mjög yndisleg ung stúlka; hún kraup á kné frammi fyrir hermanni í einkennisbúningi hershöfðingja, var hágrátandi, með spentar greipar og beiddist miskunnar; en hann gerði ekki annað en banda henni burt frá sér. Eg kendi svo mjög í brjósti um stúlkuna, að eg þaut tafarlaust ofan stigann að dyrunum út að grasflötinni, og bað hana að koma inn og segja mér, hvað að henni gengi. Þetta hvarf þá! Eg fann ekki til minsta taugaóstyrks þá; — eg fór aftur upp í svefnherbergi mitt, tók eina örk af skrifpappír og skrifaði, hvað eg hefði séð. [„Frú M. hefir fundið blaðið og sent oss það“, segir Myers. „Eftirfarandi orð eru rituð með blýant á hálfa örk af sendibréfa-

pappír: ‚13. marz 1886. Hefi í þessu bili séð sýnir á grasflötinni: hermann í einkennisbúningi hershöfðingja — unga stúlku krjúpandi frammi fyrir honum. 11,40 e. h‘]. Maðurinn minn var ekki heima, þegar þetta gerðist, en vinkona mín var gestkomandi hjá mér, svo eg fór inn í svefnherbergi hennar, sagðist hafa orðið dálítið hrædd við einhvern hávaða, og spurði hana, hvort eg mætti staldra við hjá henni ofurlitla stund. Fáeina daga á eftir var mjög mikill taugaóstyrkur á mér; en mér fanst þetta svo kynlegt, að eg varð ekkert hrædd, þegar eg sá það.

Svo kemur það upp úr kafinu, að sagan er alt of sönn. Yngsta dóttirin í þessari mjög gömlu og metnaðarríku ætt hafði eignast óskilgetið barn; foreldrar hennar og skyldmenni vildu ekki við hana kannast eftir það og hún dó harmþrungin. Hermaðurinn var náskyldur henni og líka skyldur manninum mínum; hún reyndi að fá hann — hermanninn — til að fyrirgefa sér og henni tókst það ekki. [Í síðara bréfi er lýst æfiferli Sir X. Ys. Hann var frægur yfirmaður í hernum].

Eg mundi svo glögt eftir andlitsdráttum hermannsins, að þegar eg var, nokkurum mánuðum eftir atburðinn, í heimsókn með manninum mínum í húsi, þar sem mynd var af honum, þá nam eg stað frammi fyrir myndinni og sagði: „Sko! Þarna er hershöfðinginn!“ Og það stóð líka heima; það var hann.

Í síðara bréfi segir frú M., að sýnin, sem hún sá á grasflötinni, hafi ekki horfið alt í einu, heldur hafi verið eins og hún leystist sundur smámsaman; hún fór ekki frá dyrunum, fyr en sýnin var með öllu horfin. Hún vissi ekki af myndinni í herberginu, þar sem hún sá hana, og hafði aldrei fyr komið inn í það herbergi. Ógæfan henti stúlkunna 1847 eða 1848. Frúin getur þess og, að heiðarlegur verzlunarmaður þar í nágrenninu hafi sagt, þegar hann heyrði getið um atburðinn: „Það er ekkert sjaldgæft að sjá *hana* þar, aumingjann! Illa var farið með þá stúlku“.

Svo hefir maðurinn konunnar, sem sögunnar segir, hr. M., borið vitni um málið skriflega 23. des. 1891. Hann segist ekki hafa minst neitt á myndina við konuna sína, áður en hún sá hana, en sér hafi verið forvitni á, hver áhrif myndin hefði á hana. Í sama bili sem hún hefði komið inn í herbergið, hefði hún næstum

því hrokkið aftur á bak, fölnað, hvest augun á myndina og sagt: „Þarna er hershöfðinginn!“ Hann segir og, að konunni sinni hafi verið ókunnugt um það, er gerst hafði í ætt hans, enda hafi ólán stúlkunnar næstum því verið gleymt.

Myers heldur því fram, sem virðist vera mjög skynsamlegt, að þessi saga og aðrar, sem henni eru líkar, bendi ekki á framhald lífsins eftir dauðann. Hún gerir hvorugt í því efni. Frá því er atburðurinn hefir gerst hér í heimi og þangað til frú M. sér hann endurtakast, er liðið alt að 40 árum. Það virðist ekki líklegt, að persónurnar séu að leika sama harmleikinn eftir allan þennan tíma. Tilgáta Myers er sú, að þessi og þvílík fyrirbrigði standi ekki í neinu sambandi við tilveru eftir dauðann, séu ekki annað en myndir úr jarðnesku lífi hinna látnu manna, myndir, sem hafi fest sig, vér vitum ekki hvernig, á eitthvað, sem vér vitum ekki, hvað er, myndir, er þeir svo geti skynjað við og við, er gæddir eru hæfileik til þess.

En þó að önnur eins fyrirbrigði og þetta bendi ekki á annað líf, þá benda þau samt óneitanlega á það, að Shakespeare hafi á réttu að standa, þegar hann lætur Hamlet segja, að til séu fleiri hlutir milli himins og jarðar en speki mannanna dreymir um. Það bendir oss út á ómælilegt reginhaf órannsakaðra *jarðneskra* efna. Það bendir okkur á að láta ekki of stórmannlega út af þekkingunni, okkur, börnunum, sem erum að leika okkur að skeljunum í fjörusandinum, eins og Newton komst að orði.

Eg kem þá að hinni sögunni. Hún er í bréfum til ritara amerísku greinarinnar af Sálarrannsóknafélaginu. Tveir amerískir vísindamenn ábyrgjast áreiðanleik sögumanna.

*11. jan. 1888.*

Kæri herra. — Félag yðar hefir nýlega gefið út tilmæli um, að menn skýri því frá sálarlegum fyrirbrigðum, sem áreiðanlega hefir orðið vart við. Eg sendi því virðingarfylst yðar ágæta félagi til íhugunar eftirfarandi frásögn af merkilegum atburði, og skal jafnframt láta þess getið, að sá atburður hefir haft ríkari áhrif á huga minn en öll önnur atvik lífs míns samanlögð. Eg hefi aldrei minst á hann við aðra en fjölskyldu mína og fáeina nákomna vini mína, því að eg vissi vel, að fáir mundu trúa honum eða að öðrum kosti kenna um einhverri truflun á huga mínum um það leyti, sem viðburðurinn gerðist; en eg veit vel, að eg hefi aldrei verið heilsubetri né höfuð mitt og hugur skýrari en þá.

Árið 1867 dó eina systirin, sem eg átti, 18 ára gömul stúlka, skyndilega úr kóleru í St. Louis, Mo. Mér þótti mjög vænt um hana og eg tók mér andlát hennar sérstaklega nærri. Nálægt einu ári eftir andlát hennar varð eg farsali, og það var árið 1876, á einni af ferðum mínum vestur um Bandaríkin, að viðburður sá gerðist, sem eg ætla að skýra frá.

Eg hafði leitað viðskifta í bænum St. Joseph, Mo., og var kominn inn í herbergi mitt í Pacific House til þess að senda pantanir mínar; þær voru óvenjulega miklar, svo að eg var í einkar góðu skapi. Eg var auðvitað að hugsa um þessar pantanir, og vissi, að verzlunarhúsi mínu mundi þykja vænt um, hve vel mér hafði gengið. Eg hafði ekki verið að hugsa um systur mína heitna, né um liðinn tíma að neinu leyti. Þetta var rétt um hádegið og sólin skein glatt inn í herbergið mitt. Eg var að reykja vindil og var önnum kafinn við að skrifa pantarnir mínar; þá varð eg alt í einu þess var, að einhver sat vinstra megin við mig og studdi öðrum handleggnum á borðið. Eg sneri mér snögglega við og sá greinilega hina látnu systur mína; eg horfði fast framan í andlitið á henni svo sem eina sekúndu, og eg var svo sannfærður um, að það væri hún, að eg stökk upp fagnandi og nefndi hana með nafni. Um leið og eg gerði það hvarf sýnin á einu augabragði. Eg varð eðlilega steinhissa og orðlaus og m r lá við að efast um, að eg hefði verið vakandi; en eg var með vindilinn í munninum og hélt á pennanum í hendinni og blekið var enn ekki þornað á bréfinu, sem eg var að skrifa, og af því sannfærðist eg um, að mig hafði ekki verið að dreyma og að eg hafði verið glaðvakandi. Eg var svo nærri henni, að eg hefði

getað komið við hana, ef það hefði annars verið unt, og eg tók eftir andlitsdráttunum, svipnum og öllum búningnum o. s. frv. Hún leit út eins og hún væri lifandi. Hún leit inn í augu mín með góðlátlegum og alveg eðlilegum svip. Hörundið var svo lifandi, að eg gat séð roðann eða rakann á yfirborði þess, og yfirleitt var engin breyting á andlitinu frá því, er hún var lifandi.

Nú kemur merkilegasta *staðfestingin* á frásögn minni, staðfesting, er þeir geta ekki véfengt, sem vita, að það hafi í raun og veru gerst, sem eg segi frá. Þessi vitrun, eða hvað þér nú viljið kalla það, hafði svo mikil áhrif á mig, að eg lagði á stað heim með næstu járnbrautarlest, og sagði frá því, er fyrir mig hafði borið, í viðurvist foreldra minna og fleiri manna Faðir minn er óvenjulegur greindarmaður og einkar praktiskur; hann hafði tilhneiging til þess að henda gaman að mér, þegar hann sá, hve alvarlega eg trúði því, sem eg var að segja; en hann varð líka forviða, þegar eg sagði síðar frá ljósrauðu striki eða rispu hægramegin á andlitinu á systur minni, rispu, sem eg hafði greinilega séð. Þegar eg mintist á þetta, stóð móðir mín upp titrandi, og það lá við, að liði yfir hana. Jafnskjótt sem hún hafði náð sér svo aftur, að hún gæti tekið til máls, sagði hún — og tárin runnu ofan eftir andlitinu á henni, — að það væri áreiðanlegt, að eg hefði séð systur mína, því að enginn lifandi maður annar en hún hefði vitað af þessari rispu. Þessi rispa hefði komið hjá henni sjálfri af slysi, þegar hún var að hagræða líkinu. Hún kvaðst vel muna eftir því, hvað sárt sig hefði tekið það, að hún skyldi óvart hafa skemt andlitið á látinni dóttur sinni, að hún hefði, án þess að nokkur vissi, vandlega falið þessa grunnu rispu með dufti o. s. frv., og að hún hefði aldrei minst á þetta við nokkurn lifandi mann alt fram á þennan dag. Sönnunin fyrir því var sú, að hvorki hafði faðir minn, né neinn af skyldmennum okkar orðið rispunnar var, og þeim var allsendis ókunnugt um þennan atburð, *en eg sá rispuna eins greinilega eins og hún væri nýkomin á andlitið*. Svo kynlega mikil áhrif hafði þetta á móður mína, að eftir er hún var háttuð, fór hún upp úr rúminu og klæddi sig, kom til mín og sagði mér, að *hún* að minsta kosti *vissi*, að eg hefði séð systur mína. Fáum vikum síðar dó móðir mín glöð og ánægð af þeirri trú, að hún fengi í betra heimi að hitta dóttur sína, sem hafði verið augasteinninn hennar.

Í síðara bréfi bætir hr. F. G. þessu við:

Ekkert var andakent eða vofulegt við systur mína, hvorki líkamann né búninginn; útlitið var alveg eðlilegt, og hún var í þeim búningi, sem hún var í venjulega og eg þekti svo vel. Hún sat svo við borðið, að eg gat ekki séð hana nema *upp frá mittinu*, og útlit hennar og alt, sem utan á henni var, er óafmáanlegt úr huga mínum. Eg fekk jafnvel tíma til að taka eftir kraganum og ofurlítilli brjóstnál, sem hún var með, og eins eftir kambinum í hári hennar, sem hún setti í hárið á þann hátt, er þá tíðkaðist með ungum stúlkum. Ekkert var það, er sérstaklega hefði fest þessi föt í huga mínum né móður minnar, fremur en önnur föt, sem hún hafði verið í. *Nú hefi eg gleymt öllum öðrum kjólum hennar, nælum og kömbum,* en eg gæti farið í fatakistuna hennar (sem er enn alveg eins og þegar hún skildi við hana) og valið úr einmitt þann kjólinn og þá skrautgripina, sem hún var með, þegar hún birtist mér; svo vel man eg eftir þessu.

Þér skiljið það rétt, að eg hafði lagt á stað heim fyr en eg hafði ætlað mér; þetta hafði haft svo mikil áhrif á mig, að eg gat naumast um annað hugsað; sannleikurinn var sá, að eg hætti við ferðalag, sem eg var nýbyrjaður á, og ef ekkert hefði komið fyrir, hefði eg haldið því áfram einum mánuði lengur.

Hr. F. G. segir enn í bréf til dr. Hodgson. 23. jan. 1888:

Samkvæmt tilmælum yðar legg eg hér innan í bréf frá föður mínum, með áskrift bróður míns, til staðfestingar frásögn minni um sýn þá, er eg hefi séð. Eg vil bæta því við, að faðir minn er einn af elztu og mest virtu borgurum í St. Louis, Mo., kaupmaður, sem hætt hefir við verzlun og á vetrarbústað í —, Ills., fáar mílur frá járnbrautinni. Hann er nú sjötugur, en heldur sér merkilega vel á líkama og sál, og er líka mjög vel lærður maður. Eins og eg hefi sagt yður, er hann trauður til að trúa hlutum, sem skynsemin getur ekki skýrt. Bróðir minn, sem ritar á bréfið, hefir átt heima í Boston 12 ár, rekur verzlun á —stræti, eins og sjá má á yfirskriftinni yfir þessu bréfi, og hann mundi verða síðastur manna til þess að leggja trúnað á staðhæfingar, sem ekki hafa verið færðar góðar og gildar sannanir fyrir. Aðrir, sem viðstaddir voru (að móður minni meðtalinni), eru nú dánir, eða voru svo ungir, að þeir muna nú ekki nema óljóst eftir málinu.

Þér takið eftir því, að faðir minn minnist á rispuna; það

var hún, sem kom okkur öllum í vandræði, jafnvel honum, enda höfum við aldrei getað gert okkur grein fyrir henni, aðra en þá, að eg hafi í raun og veru á einhvern dularfullan hátt séð systur mína *níu árum eftir lát hennar*. Eg hafði sérstaklega tekið eftir og lýst fyrir foreldrum mínum og skyldmennum þessari ljósrauðu rispu. Við vorum öll afdráttarlaust sannfærð um, að enginn hefði um hana vitað nema móðir mín, sem hafði óvart verið völd að henni.

Þegar eg sagði sögu mína, hlustuðu auðvitað allir á mig og öllum þótti mikils um vert; en sennilega hefðu menn látið þetta eins og vind um eyrun þjóta og talið það einhverja dutlunga úr endurminningunum, ef eg hefði ekki spurt um rispuna. Á sama augnabliki, sem eg mintist á hana, stökk móður mín upp, eins og hún hefði orðið fyrir rafmagnsstraumi, ef því að hún hafði haldið rispunni leyndri fyrir öllum, og *hún ein* gat gert grein fyrir henni. Móðir mín var einlæglega kristin kona, hafði um 25 ár verið forstöðukona fyrir stórum sunnudagaskóla í kirkjufélagi sínu, Suður-Meþódista, og var í stjórnarnefnd margra guðsþakkastofnana, enda var hún hámentuð kona. Engin var þá í meiri metum í borginni St. Louis, og auk þess var hún gædd óvenjulega mikilli heilbrigðri skynsemi.

Eg minnist á þessi atriði til þess að þér fáið hugmynd um, hvers konar menn og í hverju áliti þeir eru, sem leita verður vitnisburðar hjá í þessu máli.

*F. G.*

## Frá hr. H. G.:

—, Ills., 20. jan. 1888.

Elskulegi F. — Eg hefi fengið bréf þitt frá 16. þ. m. Til svars upp á spurningar þínar viðvíkjandi þeim viðburði, er þú sást Annie okkar í St. Joseph, Mo., skal eg taka það fram, að eg man eftir því, að þú sagðir, hvernig hún hefði litið út í hversdagsheimabúningi og sérstaklega sagðir þú frá rispunni (eða rauðum bletti) á andliti hennar, sem þú gazt ekki gert þér grein fyrir, en móðir þín skýrði til fulls. Bletturinn kom, þegar hún var að hagræða höfðinu í líkkistunni, og var þakinn dufti. Allir, sem heyrðu þig segja frá sýninni, héldu, að þú segðir satt. Þú veizt vel, hve gjarnt mér er til að efast um hluti, sem skynsemin getur ekki skýrt.

*H. G.* (faðirinn).

Eg var viðstaddur og ber því vitni, sem að ofan er sagt.
*K. G.* (bróðirinn).

Dr. Hodgson heimsótti hr. F. G. síðar og ritar Myers á þessa leið:

St. Louis, Mo., 16. apríl 1890.

Í samræðu við mig segir hr. F. G., sem nú er fjörutíu og þriggja ára, að sérstaklega hafi verið kært með móður hans, systur og honum sjálfum.

Þegar hann sá sýnina, sat hann við lítið borð, sem var um tvö fet að þvermáli, og studdi vinstri handleggnum á borðið. Skeinan, sem hann sá, var hægramegin á nefinu á systur hans, var hér um bil $^3/_4$ þumlungs á lengd og var nokkuð hrufótt. Þegar viðburðurinn gerðist, átti hann heima í St. Louis. Móðir hans andaðist innan tveggja vikna frá því, er hann sá sýnina. Andlitið á systur hans var tæpast eitt fet frá andlitinn á honum sjálfum. Sólin skein á það inn um opinn gluggann. Sýnin hvarf eins og hún hefði gufað burt á einu augabragði . . .

Hr. G. virðist vera fyrirtaks vitni.

*R. Hogdson.*

Myers telur ekki skynsamlegt að gera sér aðra grein fyrir þessari sögu, en að maðurinn hafi í raun og veru sèð fyrirbrigði úr andans heimi. Honum þykja líkur til, að stúlkan framliðna hafi vitað um, að andlát móður hennar var í nánd. »Þetta fellur svo vel saman, að það verður ekki gert að engu með neinum skýringum«, segir hann; »syninum er komið til að fara heim til þess að geta séð móður sína, einu sinni enn fyrir andlát hennar, með því eina ráði ef til vill, sem dugði til þess; og móðirin sjálf fær nýjan styrk við vitneskjuna um það, að dóttir hennar elskar hana og á von á henni«.

Eg hefi þá að eins getað sagt ykkur frá *einu* fyrirbrigði, sem vísindamennirnir geta ekki gert annað úr en að það bendi út yfir dauðann. Þá erum við

að eins komin að landamærum spíritismans. Nú væri það óneitanlega freistandi að fara með ykkur í anda inn á sjálft undraland spíritismans, þar sem táknin og stórmerkin gerast, eftir því, sem þeir fullyrða, er þangað hafa komið. Eg geri það einhvern tíma síðar, ef eg kemst til þess og eg verð þess var, að menn langi nokkuð til þess.

En eg *verð* að láta hér staðar numið í þetta sinn. Eg veit, að þið endist ekki til að hlusta á mig lengur. Eg veit, að þið getið ekki fengið neina heildarhugmynd um spíritismann af þessu, sem eg hefi sagt. En eg ætlaði mér það ekki heldur. Eg hugsaði ekki svo hátt. Mér er alls ekki unt að koma með neina heildarlýsing á jafn-víðtæku máli á örstuttri stund.

Annað hefi eg viljað gera, hvernig sem það hefir tekist. Eg hefi viljað færa nokkurar ástæður, sundurleitar ástæður vitaskuld, en ástæður *samt*, fyrir því, að varast beri annað eins rostagaspur um málið eins og staðið hefir í Þjóðólfi og Reykjavíkinni — þennan vanþekkingar-vaðal um háleitt málefni, sem er höfundunum til smánar, skynsömum mönnum og fróðum til gremju og andlegum smælingjum til ásteytingar.

Eg bið ykkur afsökunar á því, að eg hefi gert ykkur töf og ónæði með því að verða valdur að því, að þið komið hingað í þetta sinn. Mér hefði ekki komið það til hugar nema eingöngu af þeim ástæðum, sem eg tók fram í upphafi þessa máls.

En á hinu bið eg engrar afsökunar, að eg er, af veikum mætti auðvitað, en af einlægri sannleiksþrá, að kynna mér af eigin sjón þau fyrirbrigði, sem benda út yfir gröfina. Eg hefi fylsta rétt til að gera það óáreittur, frá hverri hlið, sem á það er litið. Og *mér* kemur ekkert meira við en það, hvort eg

og ástvinir mínir eiga að lifa eftir dauðann. Og eg man ekki heldur eftir neinu, sem *mannkyninu* kemur meira við en það, hvort hver einstaklingur eftir annan, hver kynslóðin eftir aðra getur gert sér von um að mega sækja æ hærra og hærra á brekkuna, þangað sem gnæfir fjallstindur fullkomnunarinnar í vitsmunum og þekkingu og heilagleik og kærleika, eða hvort sérhver mannssál á að sökkva niður í hyldýpi tilveruleysisins. Miljónir manna á jarðarhnettinum, þar á meðal nokkurir af frægustu vísindamönnum veraldarinnar, fullyrða, að um þetta geti menn í þessu lífi fengið reynsluþekking. Mér finst ekki sæmdarauki fyrir mennina að hafa enga löngun til að forvitnast um, hvort þetta er satt.

Eg veit, að til eru sterktrúaðir menn, sem fullyrða, að þeir þurfi engra frekari sannana við en þeirra, sem í kristindóminum eru. Það er gott fyrir þá. En eg get ekki skilið, að þeim geti verið nein mótgjörð í því, að við hinir, sem lítiltrúaðri erum, fáum líka fulla vissu, ef þess kynni að verða auðið. Mér finst þeir ættu að minnast þess, að einn af lærisveinum frelsarans hét Tómas. Hann hafði fengið margfalt ríkari sannanir fyrir upprisu meistara síns en við höfum fengið, ef Jóhannesar guðspjall segir rétt frá. Hann talaði við menn, sem höfðu talað við Jesúm eftir upprisu hans. En hann þverneitaði að taka vitnisburð þeirra gildan. »Sjái eg ekki naglaförin í hans höndum og láti fingur minn í þau, og hönd mína í síðu hans, þá trúi eg ekki«, sagði hann. Og hann var *samt* einn af lærisveinum Krists og einn af postulum hans.

Eg veit líka, að það verður sagt — eg hefi þegar séð vikið að því á prenti — að það sé nokkuð hlægi-

legt að hugsa sér, að *við*, eg og þeir vinir mínir, sem erum að fást við rannsókn á dularfullum fyrirbrigðum, getum komist að raun um nokkurn skapaðan hlut, sem mannkyninu kemur við. Getur vel verið. En eg sé samt ekkert hlægilegt við það, að við leitum sannleikans. Og það ætlum við að gera, hvað sem hver segir.



# NÝ DÖNSK ORÐABÓK.

Aðalhöfundur Jónas Jónasson. Rvík 1896 (8+616 bls.). Um hana segir Jón Ólafsson (Sunnanf. VII. 30, 33, 35):

Danska orðabókin er *gróði* bókmentum vorum og máli. Og með því er mikið sagt.

Þýðingarnar eru langbezta verkið í bókinni. Urmull nýyrða er upptekinn eftir öðrum og mýmörg mynduð af útgefandanum (B. J.) og hjálparmönnum hans, og mörg af þeim góð, *mörg ágæt;* sum, eins og von er til, miður heppileg. En um það er ekki svo mikið að fást. Þeim má hafna, sem fánýt þykja, en hin hagnýta. Bókin hefir *auðgað* bókmentir vorar *stórkostlega* að þessu leyti; og þetta var *vandaverkið mesta.*

(Hér) hafa menn fengið nýja og góða bók, *stórnýta* og gagnlega . . .

Prófessor, dr. Finnur Jónsson segir (Eimreið. III. 230—31):

Það var sönn þörf á þessari bók. Og það er vel frá henni gengið; prentið er skýrt og aðalorðin prentuð með feitu letri . . .; stendur bókin að þessu leyti jafnfætis öðrum þess kyns bókum í útlöndum.

Vér erum þess fullvissir, og höfum þózt geta sannfærst um það, að í bókinni muni vera flest þau orð úr dönsku máli, sem taka þurfi og nokkur von sé til, að leitað muni verða að í henni. — —

Annar höfuðkostur á bókinni (en sá, að þar eru tekin upp í þýðingarnar góð og gömul gullaldarorð, þar sem við þótti eiga) er sá, að hvarvetna er leitast við að þýða orð með orði, en ekki með skýringargrein (»það

að . . .«); að því leyti tekur bókin fram orðabók Konráðs, sem annars er svo ágæt.

Kostar heft 5 kr., bundin 6 kr.

---

## SÁLMABÓKIN

nýja, 8. prentun (Rvík 1904), er vasa-útgáfa svo kölluð, svo lítil fyrirferðar, að hún er eins og meðal-*vasakver*. Letrið er lítið eitt smærra en á hinum útgáfunum flestum. Það er alveg nýtt og skýrt aflestrar. En smæðin bókarinnar er að þakka pappírnum. Hann er næfurþunnur, en þó haldgóður mjög og ekki gagnsærri en alvanalegt er um miklu þykkri pappír. Hann er og miklu dýrari en annar pappír að tiltölu. Bindið á bókinni er mjög voðfelt og böglast því ekki né skemmist í vasa, sízt hið dýrara (á 2 króna bókinni), sem er með kringlóttum hornum, o. s. frv. Kverið er *innbundið* $5^1/_2$ þml. á lengd, 3 þml. á breidd og ekki nema $^1/_2$ þml. á þykt — sama sem rúmir 8 teningsþumlungar. Næsta stærð, 7. útg., er 18—19 teningsþuml., og 6. útg., frá 1899, er rúmir 31 teningsþuml., eða nær *ferfalt* stærri en þessi; svo ótrúlega lítil fyrirferðar er þessi nýja útgáfa.

Um þessa útgáfu segir Verði ljós, nóv.br. 1904:

»Loks geta þeir, sem hafa verið að óska eftir vasaútgáfu af Sálmabókinni okkar, fengið þá ósk sína uppfylta. Í Ísafoldarprentsmiðju hefir í sumar verið prentuð ný útgáfa Sálmabókarinnar, sem ekki er fyrirferðarmeiri en svo, að stinga má henni í vestisvasa sinn (helzt ætti vasinn þó að vera dálítið dýpri en vanalega gerist). Hún er prentuð á fínasta Indía-pappír og bundin í mjúkt alskinn. Letrið er skýrt og hreint, og skín furðanlega lítið gegnum pappírinn, svo næfurþunnur sem hann er«.

---

## ÚR HEIMAHÖGUM,

ljóðasafn Guðm. Friðjónssonar (Rvík 1902) hefir fengið mikið og maklegt lof ritdómara.

Eimreiðin (Dr. V. G.) segir (X. 61):

G. F. hefir ágætt vald á fögru, glæsilegu og kraftmiklu máli, og getur lýst því, sem hann sér, með skýrum og litsterkum dráttum. Tilfinningin virðist vera töluvert næm og sterk.

Aldamót (Fr. J. Bergmann): Um þessi ljóð verður það víst alment sagt með sönnu, að þau séu í ætt við hið bezta, sem ort hefir verið á ísl. tungu. Þau eru einkennileg að mörgu leyti. Það hvílir svo mikil karlmenska yfir þeim. Þau eru rekin saman af sterkum viðum, eins og skáli, sem lengi á að standa. (Aldamót XI. 154).

Kosta heft 1 kr. 80 a., í bandi (skrautb.) 3 kr.

---

## VESTAN HAFS OG AUSTAN,

þrjár sögur eftir Einar Hjörleifsson. Rvík 1901.

Ritstjóri Eimreiðarinnar, dr. Valtýr Guðmundsson háskólakennari, segir svo um þá bók (Eimr. VIII. 154):

Sögur þessar eru ritaðar af svo mikilli list, að hverri þjóð mundi þykja sómi að eiga þær í bókmentum sínum.

Ritstjóri Aldamóta, Fr. J. Bergmann (Aldamót XI. 137):

Sögurnar eru prýðilega prentaðar, á ágætan pappír, svo að það er ein hin vandaðasta bók, er út hefir komið á Íslandi að ytra frágangi. — — Fyrir að hafa ritað þessar þrjár sögur er Einar Hjörleifsson óneitanlega kominn feti *fram úr öllum* þeim, er ritað hafa skáldsögur á ís-

lenzku — — Hann á vissulega *miklar þakkir* skilið af þjóð sinni fyrir að hafa ritað þessar sögur.

Kostar heft 1 kr. 50 a., bundin (skrautb.) 2 kr. 50 a.

---

## ÍSLAND UM ALDAMÓTIN,

ferðasaga eftir Friðrik J. Bergmann (Rvík 1901) er einkarvandað rit að öllum frágangi og hefir að geyma allmikinn fróðleik fyrir síðari tíma menn um hagi og horfur lands og lýðs á þessum aldamótum, bæði í veraldlegum og andlegum efnum. En einkum einkennir það einstaklega hlýtt góðvildarþel til lands og þjóðar. Sumir kaflarnir eru prýðilega hugsaðar og ritaðar framfarahugvekjur, jafnframt því sem þær eru vönduð lýsing á ástandinu eins og það er nú.

Kostar heft 2 kr., innb. í skrautb. 3 kr.

---

## KRISTIN FRÆÐI,

ágrip, eftir *Gustav Jensen*, prest í Kristjanín; íslenzkað hefir *Haraldur Níelsson,* cand. theol. Reykjavík 1904 (4 + 140 bls.). Það er kristindómskenslubók, alþýðlega rituð, eftir einn hinn frægasta kennimann á Norðurlöndum, og ágætlega þýdd á íslenzku. Henni er skift í þessa kafla: 1. Inngangur; 2. Undirbúningur; 3. Jesús Kristur; 4. Kirkja Krists; 5. Kristindómurinn og einstaklingurinn; 6. Kristindómurinn og félagslífið; 7. Fullkomnunin; 8. Niðurlag.

Kostar heft 1 kr. 50 a.

---

# Bœjarskrá Reykjavíkur
# 1905

er alveg ómissandi handbók fyrir hvern mann, hvern íbúa höfuðstaðarins fyrst og fremst, og þar næst alla þá, er þar koma ókunnugir, og yfirleitt þá, er þar hafa viðskifti. Eftir henni, með uppdrættinum framan við hana, er auðratað um allan bæinn og auðgert að finna hér um bil hvern mann, sem á með sig sjálfur. Þeir eru þar taldir í stafrófsröð með heimilum þeirra. — Að öðru leyti er innihaldið þetta: fyrst gatna registur og bæja í stafrófsröð; þá auglýsendaregistur yfir þá um 30 kaupmenn og handiðnamenn m. fl., sem auglýst hafa í bæjarskránni; þá heimilaskrá — upptalning á götum bæjarins og húsnúmerum með íbúum þeirra; þá nafnaskrá — nöfnin í stafrófsröð með heimilum aftan við; þá félagaskrá og stofnana (120—130); þá atvinnuskrá — nöfn flestra helztu atvinnurekenda í bænum, flokkuð niður, með heimilum þeirra.

Félagaskráin og stofnana hefir að geyma ákaflega mikinn fróðleik og margvíslegan — uptalning félaganna, með stjórnendum þeirra, tilgangi, stofnunardegi, tillagi o. fl.; sýslunarmenn bæjarins, nefndir o. fl., og hverjar skyldur þeir (þær) hafa, svo sem byggingarnefnd, fátækranefnd og fátækrafulltrúar, veganefnd o. s. frv. Ennfremur nákvæm minnisgrein um burðareyri innanlands og utan. Alþingismannatal o. m. fl.

